# Eitt orð af viti

um

# Vestrfara og Vestrheimsferðir.



---

Svar og ávarp

til

**Bjarnar** ritstjóra **Jónssonar**

**upp á allan þann ósanninda-þvætting, óhróðr og óráðs-bull, sem útbreitt er í og með „Ísafold“.**

---

## Benedikt Gröndal afklæddr,

hirtr og settr í gapastokkinn.

---

Eftir

gamlan vestrfara

(Jón Ólafsson, alþm.)

Reykjavík.
Prentsmiðja Sigf. Eymundssonar og Sig. Jónssonar.
1888.

# Hvers vegna ég tek til máls.

Í byrjun febrúar-mánaðar var prentað rit í Ísafoldar-prentsmiðju, sem nefndist: „*Benedict Gröndal:* **Um Vesturheimsferðir**“. Það var lagt strangt á við prentarana (og jafnvel lagðr við burtrekstr úr prentsmiðjunni), að ekki kvisaðist um prentun ritsins að sinni. Það var svo heft inn þar í húsinu og sent ókeypis með póstunum kaupendum Ísafoldar utanbæjar eða í fjarlægð, en ekki látið sjást hér í bænum fyrri en í marz-mánuði. Pukrið er auðskilið: þegar menn útbreiða það sem auðhrakið er þegar, ef því yrði svarað, þá er eini viðlits-vegrinn í bráð, að reyna að fyrirbyggja í lengstu lög að svarað verði fyrr en síðar, því að þá geta ýmsir verið búnir að festa trú á því, svo að þeir vilja úr því engin svör heyra né lesa. — Það var þá hægt með þessu móti að breiða út lygi og óhróðr í nokkrar vikur ómótmælt, svo að þeir sem fyrir því urðu, gætu ekki borið hönd fyrir höfuð sér.

Í riti þessu segir meðal annars svo (á 4. og 5. bls.): „Meginhluti þessa fólks, sem nú fer frá Íslandi til Ameríku“ er „sá lakasti skríll, sem vér raunar megum verða fegnir að losast við“. „Það má fullyrða að enginn merkismaðr hefir farið héðan til Vestrheims — það skyldi þá vera Eggert Gunnarsson eða Hans Robb* — *þeir fáu af inum svo kallaða mentaða flokki, sem þangað hafa farið, hafa verið óróamenn og ekkert fengizt til að gera hér, svo einu gilti, hvar þeir fóru — allir þessir menn geta ekki skoðazt öðruvísi en sem uppgjafahrœður, sem hafa lagt árar í bát og yfirgefa þá sem berjast fyrir frelsi og fóstrjörð*“.

---

*) Eggert þekkja allir; en hvað hraparlega sem hann og hans ráðlag fór á endanum, þá var hann þó óneitanlega um eitt skeið merkr maðr fyrir dugnað sinn og góðvilja, og verðr ævinnlega tíu sinnum merkari en Benedikt Gröndal. — Hans Robb var að ásýndar-fríðleik og reglusemi mjög áþekkr Gröndal, auðvitað einfaldari maðr, en aftr ólíkt sannorðari.

Ég er einn þessara manna, sem fæ þessa lýsingu hjá Benedikt Gröndal.

Ég hefi farið frá Íslandi, „yfirgefið fóstrjörð“ mína og farið til Ameríku; og hversu ómerkilegan sem Gröndal að öðru leyti telr mig (langt fyrir neðan Eggert og Robb), þá getr hann ekki neitað því, að ég er *einn* af þessum *„fáu af inum mentaða flokki*, sem þangað hafa farið“; um þá **alla** segir hann, að þeir hafi verið *óróamenn* og *ekkert fengizt til að gera hér*, uppgjafa-hræður, sem hafa *lagt árar í bát* og *yfirgefið þá*, sem *berjast fyrir frelsi og fóstrjörð*“.

Um engan af þeim mönnum „af inum mentaða flokki“, sem héðan hefir farið til Vestrheims, verðr það sagt, svo að nokkur flugu-fótr sé fyrir, að þeir hafi verið óróamenn, nema það skyldi vera ég, sem Gröndal á við. *Allir* hinir hafa verið mestu spaklætis-menn og aldrei orðaðir við óróa. Ég varð fyrir opinberri málsókn 1870 fyrir að hafa ráðið til uppreisnar(!) með Íslendingabrag. Þótt ég væri *sýknaðr* með dómi af þeirri kæru, þá er þetta víst Gröndal nóg til að kalla mig „óróamann“. Ég varð þá að flýja land og fór til Noregs, og á meðan sat Gröndal í Kaupmannahöfn, leigðr af stjórninni til að gefa út „Gefn“ og skamma út í henni alla landa sína, sem fylgdu fram sjálfstjórnarrétti Íslands. Ég vann að hinu sama í útlegðinni, sem ég hafði gert heima; reyndi eftir veiku megni (ég var þá tvítugr unglingr) að halda á lofti málstað fóstrjarðar minnar og frelsisins; og sagði þá Gröndal um mig í „Gefn“, að ég sæti í Björgvin og „lygi Norðmenn fulla“. Þegar hann hafði þjónað stjórninni, sem hann hafði selt sig þá, nógu lengi, veitti hún honum, „hálfmentuðum Æru-Tobba*“ og for-drukknum hringlanda-garmi, kennara-embætti hér við skólann, sem hann þjónaði með skömm í 8 ár og drakk sig svo frá**. Aftr fór ég úr landi til Ameríku 1873, af því mér var ekki við vært fyrir málsóknum landshöfðingja. Fyrir þetta má nú auðvitað, og er handhægt fyrir gamalt sölu-kvikfé stjórnarinnar, að kalla mig „óróasegg“; en þess er þó að gæta, að *öll þjóðin* var þá tómir óróaseggir í sínum hjörtum; því að þótt ég kvæði einn upp úr, þá sagði ég það eitt, er allir hugsuðu og vildu sagt láta. En ég skal ekki um það fást eða draga úr því, hvað og að hve miklu leyti ég kann að hafa of gert;

---

*) Eitthvað á þá leið kallaði Sveinn Skúlason Gr. mjög hnyttilega í „Norðra“.

**) Það dugar ekki að koma með það, að Gröndal hafi „sagt af sér“, en ekki verið „settr af“, því að kæra var komin yfir honum og amtmaðr búinn að leggja til, að hann yrði af settr, þegar Gröndal kom með lausnar-beiðnina (blindfullr); mér er það kunnugt, því að ég hefi bæði lesið skjölin þessu viðvíkjandi og vissi, hvernig það gekk til (ég var þá ritari á landshöfðingjaskrifstofunni); var svo Gröndal af miskunnsemi lofað að „segja af sér“ að nafninu.

*það* er hér ekki höfuðatriðið; en *það* sem ég hef gert og verið kallaðr „óróamaðr“ fyrir, það hefi ég fyrr og síðar gert *fyrir þá eina sök*, að mér hefir fundizt það þurfa að gerast; ég hefi gert það eigi að eins án gjalds eða minstu vonar um endrgjald fyrr eða síðar. heldr og með fullri meðvitund um, að almenningr á Íslandi launaði mér í bezta lagi með fagrgala í orði og vanþökk á borði. Þetta vissi ég af reynslu, og hitt eigi síðr, að einmitt af því að ég gerði þennan „óróa“ af mér, sem Gröndal kallar, þorði enginn maðr að veita mér atvinnu eða eiga nein mök við mig, til að verða ekki illa þokkaðr „á hærri stöðum“; ég hefi ávalt verið fús á að vinna, hefi heldr ekki verið iðjulaus um dagana; Gröndal *lýgr* því, *marglýgr* því, að því er *mig* snertir, að ég hafi „ekkert fengizt til að gera“; en hitt var sannara, að ég hefi einatt „ekkert fengið að gera“ hér á landi, og því orðið að leita tvívegis af landi burt.

Og hver er sá sem nú bregðr mér brigzlum um, að ég hafi „lagt árar í bát“ og „yfirgefið þá sem börðust fyrir frelsi og fóstrjörð“? Það er Benedict Gröndal. Hvað hafðist *hann* að, þegar ég „yfirgaf“ Ísland? Var *hann* heima á Íslandi? Var *hann* að „berjast fyrir frelsi og fóstrjörð“? — Nei! Hann var í Kaupmannahöfn, hafði þá alið mestan aldr sinn utanlands? Er það betra að ala aldr sinn í Danmörku, heldr en í Vestrheimi? Er það heiðarlegt, að selja úr sér trúna þegar maðr nennir ekkert ærlegt vik að gera og vera svo í katólsku slagtogi með Djúnka suðr um lönd, en svívirðilegt að vinna fyrir sér í Ameríku þegar þess er ekki kostr á Íslandi? Og hvort er „að leggja árar í bát“, að leita sér heiðarlegrar atvinnu í Ameríku, þá er hún fæst ekki á Íslandi, eða hitt, að selja sig þá stjórninni til að skamma út alla landa sína, sem „berjast fyrir frelsi og fóstrjörð“, *eins og Gröndal hafði gert einmitt á þeim tíma, er ég fór vestr?*

Þessi uppgjafa-hræða, þetta siðferðislega þrota-flak, dirfist að ganga fram á ný nú í elli sinni til að svívirða alla þá menn „af inum svo kallaða mentaða flokki“, sem farið hafa til Vestrheims. Þessi ólánsgarmr, sem aldrei hefir sjáanlega haft neina sannfæring nema „til sölu“ hæstbjóðanda —, sem aldrei hefir annað verið en illa hálfmentaðr Æru-Tobbi, og ekkert vitað í neinni fræðigrein til hlítar*, aldrei sam-

---

*) Almenningr, sem hefir enga náttúrufræðislega þekking, en hefir séð að Gröndal hefir gefið út „Dýrafræði“, „Steinafræði“ og „Efnafræði“, kann að ætla þetta sleggjudóm eða bræði-orð; en það er ekki; þótt það þurfi ekki mikla þekking til að snapa saman og þýða úr útlendum bókum slík rit, þá hefir Gröndal ekki verið maðr til þess án stór-hneyksla. Ég skýt því undir dóm þeirra landa minna, sem *bezt* eru að sér í þessum fræðigreinum (og hafa þó sum axarsköftin verið löguð í handriti hjá Gr. áðr en prentað var).

ið skammlaust eða hneykslislaust rit um sína daga í óbundnum stíl, að „Heljarslóðarorustu“ frá skildri, en liggr nú upp á landssjóði með eftirlauna-premíu fyrir að drekka sig úr embætti, sem hann aldrei var hæfr til að hafa á hendi, og snýkir árlega *þar að auki* ærið fé úr landssjóði fyrir tómt „húmbúg“, og lifir þannig á því sem ég og aðrir ærlegir menn, sem nennum að vinna fyrir okkr, gjöldum í landssjóðinn. Enginn af þeim sem fyrir vestan haf eru, á kost á að bera hönd fyrir höfuð sér að sinni, og kannske aldrei, því að blöðin hér, sum hver, synja viðtöku því sem ekki passar í þeirra kram. Einnig það er mér hvöt til, sem einum af þeim sem vestr hafa farið, að svara fyrir fjarlæga landa mína.

Það hefir verið undarleg miskunn, sem allir hafa sýnt Gröndal til þessa, að enginn hefir tekið hann og afklætt hann, sýnt fáfræði hans og samvizkuleysi í að berja fram blákalda lygi og bent á æfiferilinn. Það er óskemtilegt verk, en það var þörf á, að það væri einu sinni gert, — og nú hefi ég gert það.

---

# Hvers vegna ég ávarpa ritstj. Björn Jónsson.

Þegar maðr, sem hefir samið kenslubók í landafræði og ekki blygðazt sín við að hafa á hendi kennara-embætti í þeirri grein, segir, eins og Gröndal hefir sagt (í „Lestrarbók handa Alþýðu“), að „Rússar séu allir hund-heiðnir“, og þegar sami maðr segir aftr, að „*Bandaríkin* sé inn *einasti* mentaði partr af Ameríku — *alt hitt sé verra en villu-lönd*“ (í „Þjóðólfi“ í haust), þá er von að „Lögberg“ (nr. 3.) segi um þetta: „*Það er ómögulegt annað, en hér sé logið af ásettu ráði*“.

Maðr, sem þannig skeytir að engu sannleikanum, en ber fram bláköld ósannindi móti betri vitund, maðr, sem eins og Gröndal hefir alla sína æfi selt sig hverjum sem hafa vildi til hins og þessa, fyrst Djúnka, síðan Íslendingum í Höfn, sem gáfu honum að éta og drekka, síðan dönsku stjórninni til að skamma út Íslendinga, og nú síðast forskrifað sig til „þess Vonda“ til að skamma út Vestrheim, Vestrfara og alt, sem fólksflutningum við kemr, sá maðr hefir bitið svo höfuð af allri skömm, að engum manni með viti ætti að detta í hug að festa trúnað á einu hans orði; hann bítr ekkert, þótt sýnt sé fram á vitleysur hans og ósannindi. Afklætt hann getr maðr, eins og nú hefi ég gert, og gefið honum þá ráðningu, sem liggr í þeirri fyrirlitning allra, sem aðferð hans hlýtr að baka honum, þegar ofan af henni er flett; en ávarpað hann með von um, að hann skeyti sannleika, skömm eða heiðri — það getr enginn; hann verðr í bezta lagi að skoðast sem ótilreiknanlegt fífl.

En sá sem þekkir Gröndal og þekkir til, að það er óráðsbull, ósannindi og „della“, sem hann skrifar — mentaðr maðr með sómatilfinning og góðu mannorði, eins og ritstjóri „Ísafoldar“ — sem samt er svo gálaus eða skeytingarlaus eða . . . ég veit ekki hvað . . . að útbreiða slíkan óþverra með því umyrðalaust að útdeila því ókeypis eins og einhverju lífsins orði með blaði sínu — — *hann* verðr maðr að ávarpa; *hann* ber, enda þótt ekki að lögum, þá samt *siðferðislega*, ábyrgðina á því, að útbreiða þetta, hvort heldr hann er verkfæri í hendi fíflsins og óreiðumannsins, eða fíflið og óreiðumaðrinn er verkfæri í hans höndum.

---

# Svar og ávarp

## til ritstjóra „Ísafoldar“ Bjarnar Jónssonar.

Ég skal nú líta á nokkur atriði í riti því „um Vestrheimsferðir“, sem ritstjóri Ísafoldar gefr ókeypis öllum kaupendum blaðs síns utan Reykjavíkr.

Á 1. bls. segir, að blöðin hér á landi séu heldr hvetjandi en letjandi útflutninga fólks. Þetta er ósatt, eins og allir vita, sem blöð lesa. Blöðin láta útflutninga hlutlausa öll nema „Ísafold“, sem *sérstaklega síðan í fyrra vetr* lætr sér mjög ant um að útbreiða alls konar markleysu og ósanninda þvætting, sem hún getr fingrum fest, um Vestrheim. Að gizka á að þetta standi í nokkru sambandi við það, að sá sem mest flytr af fólki vestr, er eigandi að hálfu að annari prentsmiðjunni hér í Rvík (þeirri sem ritstjóri Ísafoldar á *ekki*), eða að hugsa að þetta komi af því, að útg. Ísafoldar blæði í augum tekjur þessa „agents“, væri lítið góðmannlegri tilgáta, heldr en getsakir þær sem þetta Ísafoldar-evangelíum gerir hinum ritstjórunum — en þó engan veginn eins ósennileg, *ef* menn vildu ætla ritstjórunum það öllum, að enginn þeirra liti á neitt nema eiginn hag — sem mér í fullri alvöru er fjarri að ætla *neinum þeirra.*

Bullinu um landnámsmenn fornu og Noregskonunga (á bls. 1. og 2.) sleppi ég. Það kemr eins og fjandin úr sauðarleggnum.

En á 2. bls. tilfœrir höf. þessi orð Hannesar byskups Finnssonar: „Eins lands stœrsta lukka er, að hafa margt fólk, sem er sjálfu sjer og öðrum til gagns“. Þetta á að vera svo nýstárlegr sannleikr, að það er endrprentað framan á kápunni á ritinu. Höf. ritsins virðist hafa lesið þetta *eins og hann er vanr að lesa*, þ. e. einblínt á þetta, að það væri „eins lands stœrsta lukka, að hafa margt fólk“, en gleymt því sem var aðalskilyrði: *„fólk, sem er sjálfu sér og öðrum til gagns.*

Við skulum skoða þessa setningu betr, og í ýmsu sambandi, og sjá svo hvað hún sannar.

Fyrst skulum við minnast þess, að neðarlega á 4. bls. segir sami höfundr: „Hvernig er *meginhluti* þessa fólks, sem nú fer frá Íslandi til Ameríku? — *Bláfátœkir aumingjar* og *sá lakasti skríll*, sem vér raunar *megum verða fegnir að losast við*, eins og oft hefir verið *viðrkent* að *slíkt fólk væri landi voru einungis til byrði*“. Hvað á þá allr þessi belgingr, öll þessi „della“ um það tjón, sem land vort líði við vestrfarir? *Meginhluti* Vestrfara er *eftir vitnisburði höfundarins ekki* „fólk, sem er sjálfu sér og öðrum til gagns“. Úr því að þetta fólk — *meginhluti* allra Vestrfara frá Íslandi — er landinu hér „einungis til byrði“, og úr því að „vér megum *verða fegnir* að losast við“ það, þá ætti höf. virkilega að fara fram á að veita þeim *verðlaun úr landssjóði* agentunum, sem hjálpa því vestr, miklu fremr en skamma þá fyrir „blóðpeninga“ og því líkt. Það er nú annars hætt við, að höf. verði æðieinmana með lýsing sína á Vestrförum, og enginn vísari til en hann sjálfr að éta hana alla í sig aftr í annað sinn[1].

---

1) Hitt munu flestir geta orðið ásáttir um, að til sé ýmsir þeir menn hér heima, sem ábati væri að senda vestr. — Að reikna

Hvernig fer höf. annars að segja í öðru orðinu, að *meginhluti* allra, sem vestr fara, sé skríll, sem sé *landi voru einungis til byrði* og *vér megum verða fegnir að losast við*, en telja það þó í hinu orðinu mesta tjón fyrir landið, að missa það?! — Jú, á 6. og 7. bls. finnr höf. út þann vísdóm, að *verðleggja* alla vestrfara *sem þræla*, og metr hvern á 4000 kr. (auk fargjalds og þess sem þeir hafa með); það eru *mennirnir* sjálfir, þ. e. vinnukraftr þeirra, sem höf. metr 4000 krónur. Árleg 4% renta af 4000 kr. er 160 kr., og þessa upphæð hefði hver og einn (börn og alt) átt að leggja til almennra þarfa árlega, til þess að mennirnir verði reiknaðir þetta, (og reyndar meira: árlegan hlut höfuðstóls); og þetta eru mennirnir, sem höf. er nýbúinn að segja, að verið hafi Íslandi *eingöngu til byrðar!!* Hefir nokkur heyrt slíka endileysu?

Þess má minnast í þessu sambandi, að ekki einu sinni það sem höf. segir um fargjaldið, er rétt; fyrst er það *hæst* 130, en ekki 150 kr., og *þó að* 2000 menn hefðu farið vestr í sumar, þá yrði það *ekki* 300 þúsund kr., heldr 260 þúsund kr., sem far þeirra hefði kostað; en nú er þess að gæta, að töluverðr hluti þessa mun hafa verið unglingar, er borguðu *hálft* fargjald, og nokkuð börn, sem fóru *frítt*. Ætli 60 þúsundirnar falli ekki aftan af með því móti?

*Og svo er það tilhæfulaust, að alt þetta fé hafi verið fé héðan af Íslandi.* **Ekki svo all-lítið af því er fé sent**

---

Íslandi tap að því, sem fari burtu í fargjald fyrir þetta fólk, sem hér á að eins að vera til byrði, nær engri átt; farið þangað, sem Ísl. tíðka að fara vestast, er 130 kr. alls, og er auðsætt, að það er *ábati* að missa 130 kr. *einu sinni fyrir alt* út úr landinu fyrir það að *losna alveg* við persónu, sem er hér *til byrði* landinu. Það væri enda tilvinnandi (og gróði) að borga 10 sinnum 130 kr. til að flytja héðan fordrukkinn landsómaga, sem leggja verðr 1400 kr. á ári af landssjóði. Bara þeir vestra sendu þá ekki slíkan peja heim aftr!!

**hingað heim frá Íslendingum í Ameríku,** sem þannig borga fyrir að létta á okkr þessari ómegð, sem höf. telr vera *einungis til byrði* landinu!

Svona er alt hjá honum!

„Eins *lands* stærsta lukka er að hafa margt fólk“ o. s. frv.

Hvað þýðir „land“ í þessu sambandi?

Eru það fjöll og dalir, grjót og grundir? Er það „land“ í sama skilningi, sem þá er sagt er: „*Landið* er fagurt og frítt“ eða: „*landið* er hrjóstrugt og hart“? Ef svo er, þá er setningin vitleysa; fjöllin og hálsarnir, holtin og hamrarnir, mýrarnar og móarnir, hraunin og öræfin verða hvorki „lukkulegri“ né „ólukkulegri“ hvort heldr þau hafa margt fólk eða fátt.

Dauða náttúran þekkir ekki *lán* eða *ólán*.

Hvað þýðr þá „*land*“ í þessu sambandi? Er það *þjóðin?* Ef svo er, er þá *þjóðin* annað en sú *heild*, sem myndast af *öllum einstaklingunum* í landinu? En setningin er ekki rétt né sönn að heldr. Það er *alls ekki* „stærsta lukka“ fyrir *alla* einstaklinga eins lands, að landið hafi sem flest fólk, „sem sé sjálfu sér og öðrum til gagns“. Er yfir höfuð nokkur sá maðr til, sem er sjálfbjarga og ekki ómagi annara, að hann sé ekki sjálfum sér og einhverjum öðrum til einhvers gagns? Að leggja þá þýðing í, að hann skuli vera *öllum* öðrum landsmönnum til gagns, er víst of mikið, því að þá yrði þeir teljandi, sem heyrðu til því fólki, sem „stærsta lukka“ væri að hafa. Nei, það er ekki nóg, að maðrinn sé sér og öðrum til gagns, ef hann jafnframt er *öðrum til skaða.* Þá verðr að vega hvort meira má. Það vita allir, að til er máltæki, sem segir: *eins dauði er annars brauð*! Hvernig stendr á því? Ef ofskipað er fólki í einhverja atvinnugrein, verðr afleiðingin *annaðhvort* sú, að *allir* fá *rýran* afrakstr vinu sinnar, eða þá hitt (sem almennara er), að fleiri eða færri menn, sem kraftinn hafa mestan, fá *góðan* arð eða

afrakstr, en hávaðinn eða allmargir fá *ekki* þann afrakstr, er þeir fái sæmilega við lifað. Nú er það auðsætt, að eigi að eins er *það* bótar-vegr, ef ofmergð er fólksins, að þeir vesölustu fari (ef þeir kynnu að komast) burtu; en hitt getr og verið hagr, að einhverjir af kraftmönnunum, sem þó hafa verið „sjálfum sér og öðrum til gagns“, sjái sér hag í að fara burt, því að með því rýmist um fyrir mörgum kraftminni, og verðr það *þeim* til gagns.

Þannig er enginn vafi á, að margir hér á landi hafa haft gagn og góðan hag á því, að aðrir hafa farið til Vestrheims; jarðnœði hafa orðið auðfengnari og skepnur ódýrri.

Það tjáir ekki að svara því hér, að Ísland gæti framfleytt fleiru fólki, ef atvinnuvegir væri í góðu lagi og vel stundaðir. Það getr verið *ofmergð* fólks í landi, þótt landið *gæti* framfleytt öllu fólkinu, sem í því er, og meiru til, ef *atvinnuvegir og auðmagn til framkvæmda væri annað, en það er.*

Nú eru 8 til 9 þúsundir Íslendinga í Vestrheimi. Dettr nokkrum manni með heilbrigðri skynsemi í hug að ætla, að ef aldrei hefði nokkur maðr farið frá Íslandi til Vestrheims, þá mundi hér vera 8—9000 manns fleira í landinu, en nú er? — Nei, *einmitt fyrir fólksflutningana hefir hér orðið rúm fyrir fólk, sem ekki hefði getað orðið til eða verið á lífi, ef ekki hefðu þokað fyrir því þeir er vestr fóru.* —

Magr hefir hér getað byrjað búskap og orðið sjálfstæðr maðr, sem ekki hefði getað það, ef ekki hefði aðrir farið vestr. — Hver á við aumari kjör *að kaupi* að búa, en vinnufólk átti hér áðr en Vestrfarir hófust? Hefir ekki kaupgjald hjúa hækkað að mun á Austrlandi og Norðrlandi í þeim héruðum, er flestir hafa farið úr? Og á það sér ekki stað sumstaðar nú, að á mörgu heimili vinni 3 vinnumenn það sama verk, sem áðr unnu 4? Þetta er eðlileg afleiðing útflutninganna, að kaup hækkar, en af því

leiðir aftr, að meiri vinna er heimtuð af hjúinu, og er hvorttveggja in mesta framför, því að meira eitr í búi er naumast til, en óþarft hjúahald, þótt hjúin sé ódýr á kaupi, og þótt þau máske helzt of oft sé svikin um það sem þeim er lofað.

Ekki eru það vinnuhjúin á Íslandi, sem hafa tapað á því, þótt menn hafi fluzt vestr, og þau eru þó fjölmennasta stéttin í landinu. Ekki eru það heldr þeir sem fengið hafa jarðnæði og gripi ódýrra fyrir burtför Vestrfara, ekki eru það *þeir* sem hafa tapað.

*Fjölmennasti flokkr þjóðarinnar hefir grætt, en ekki tapað, við Vestrfarirnar.*

Hafi *nokkrir* á því *tapað*, þá er það þó *ekki meiri hluti einstaklinganna* í landinu — *ekki þjóðin í heild sinni.*

En hvað þýðir þá „*landið*“ í þessu sambandi, sem áðr er á vikið?

Eitt er víst, að ef við látum „*landið*“ þýða sama sem „*landssjóð*“, þá færist setningin sönnu nær.

„*Landssjóðsins*“ stœrsta lukka er að hafa sem flesta gjaldendr. Og það er „stœrsta lukka“ fyrir alla *landsómaga* eða *landssjóðs-ómaga* — en svo kalla ég ekki nýta embættismenn, sem vinna heiðarlega í sinni stöðu fyrir hæfileg laun; svo nefni ég ekki einu sinni eftirlaunamenn, sem eftirlaun hafa fengið eftir samvizkusamlega unnið æfistarf, þegar elli eða *ósjálfbökuð* vanheilsa gerði þá óvinnufœra lengr, *en ég nefni svo þá sem fyrir leti, ómensku eða óreglu sakir eru óhæfir orðnir til allra ærlegra vika, en fyrir óverðskuldaða meðaumkun fá greiddan forlagseyri úr landssjóði í stað þess að lenda á hreppnum, ef eigi var hægt með löglegri hirtingu að þrýsta þeim til almennilegrar vinnu.* Meðal landsómaga tel ég meðal annars Benedikt Gröndal, höfund þessa Ísafoldar-ritlings, sem þannig hefir *eigingirninnar* sterku hvöt til að amast við fólksflutningum til Vestrheims.

Ef eitthvað fjaraði í landssjóðnum, þá er ekki ólík-

legt, að menn fengju hvöt til að hugsa sig dálítið betr um, hvernig fé hans er varið; þá kynni að verða fært niðr meðlagið með þessum landsómaga.

Á 3. bls. segir, að bréf frá Ameríku hingað muni vera lesin — sjálfsagt af póststjórninni þar, því að ekki væri það tiltökumál annars þótt þau væru *lesin*, því að öll bréf eru líklega skrifuð til að vera *lesin*. Flónskan er hér nú eins stór og illgirnin. Að halda að frjálsasta þjóð í heimi þyldi annað eins hjá sér eins og bréfa-skoðanir? Og hverjir ættu að lesa? Ætli Bandaríkin og Canada haldi Íslending á hverju pósthúsi við Atlants-haf, eða réttara á hverju pósthúsi á öllum landamærum að austan, vestan, norðan og sunnan? Og ef þau héldu Íslendinga til að lesa bréf á íslenzku, ætli það yrði þá ekki líka að halda á hverju pósthúsi einn danskan mann, einn Svía, einn Þjóðverja, einn Hollending, einn Spánverja, einn Portúgalsmann, einn Rússa, einn Finna, einn Tyrkja, einn Grikkja, einn Ítala, einn Ungverja — í stuttu máli: einn mann fyrir hverja tungu í öllum heimi? Og miklu fleiri þó, því að enginn einn maðr kæmist yfir að lesa öll bréf, sem daglega fara t. d. á þýzku gegn um sum pósthúsin. Vitleysan er svo stórskorin, að höf. hlýtr að hugsa sér alla alþýðu á Íslandi tóma bjána, ef hún ætti að trúa slíku.

Það þykir höf. fjarstæða, að búast við því, að Vestrfarar verði oss til styrktar í pólitísku tilliti, „enda hafa engir menn farið héðan og þangað, sem gætu það“.

Það segir Bjørnstjerne Bjørnson að sé „ómetanlegt“, hver frelsis-andi og frelsis-áhugi hafi útbreiðzt meðal almennings í Noregi, ekki að eins eða einu sinni mestmegnis með blöðum og tímaritum á norsku, er heim eru send frá Ameríku, heldr jafnvel einna mest með þeim urmul bréfa í allar sveitir landsins, sem með hverjum pósti berist heim frá Ameríku. Sama raun hefir víðar á orðið. Án þess að leggja neinn dóm á baráttu-aðferð Íra, má geta þess, að megin-fjárafla til sinnar baráttu hafa þeir

fengið og fá enn í dag frá löndum sínum vestan um haf. Og þar sem Írar eru nú auðsjáanlega að því komnir að ná sínu sjálfsforræði, þá er óhætt að fullyrða, að án hjálpar landa sinna í Ameríku hefði þeir hvergi komizt. Ég tek það skýrt fram enn og aftr, að ég með því að vitna í þetta, vil í engan máta réttlæta ofbeldisverk Íra. En hitt, að frelsisþráin, sjálfsforræðisþráin hefir glædd verið vestan um haf, og að megin-fjáraflinn til baráttunnar er þaðan runninn, *það* er óneitanlegt.

Áhrifin af að lifa í frjálsu landi og sjá, hvernig frelsið verkar í framkvæmdinni — sjá, hvernig kostirnir jafnan laga ókostina, hversu sömu þjóðir, sömu menn verða að öðrum *nýtari* og *betri* mönnum undir loftslagi frelsisins, þau eru ómetanleg; slíkt verkar á hvern, sem það reynir. Ég get um þetta talað af reynslunni, því að ég hefi lifað þetta, reynt það sjálfr. Ég veit og finn, að vera mín í Ameríku hefir innrætt mér þá óbifanlega trú á blessun og mátt frelsisins og fræðslu almennings, sem engin fræðsla, enginn lestr hefði getað innrœtt mér eins bjargfasta. Aðr en ég var í Ameríku var trú mín á frelsið *dogmatísk, lærð trú, kredda* — síðan er hún *lifandi sannfæring*, eins örugg eins og vissan um ið algengasta náttúru-lögmál.

Og hvert nýtilegt orð, sem ég hefi talað eða skrifað um almenn mál, síðan ég kom frá Ameríku, og fallið hefir í þann jarðveg, að það hafi borið einhvern árangr, sýnilegan eða ósýnilegan, það þakka ég Ameríku og veru minni þar.

Og ég get sagt það með vissu, að persónuleg áhrif séra Jóns Bjarnasonar, þau ár sem hann þjónaði embætti eystra eftir að hann hafði verið í Ameríku, þau mun auðvelt að rekja þar í mörgu. Og hver einasti maðr, sem gæddr er góðri greind og farið hefir til Vestrheims, hann hefir orðið fyrir miklum áhrifum, sjóndeildarhringr hans hefir stækkað, lífsreynsla hans aukizt, og öllum hefir þeim vax-

ið ást til frelsis og menningar. Það er óyggjandi að flest bréf hingað heim til vina og ættingja frá inum greindari mönnum, sem vestr hafa farið (og þeir hafa verið margir, þótt lágt hafi verið settir að stétt eða mannvirðingum) — flest flytja þau og hafa flutt heim hingað þann anda, sem aldrei verðr nógsamlega að blásið: virðing fyrir menningu, ást á frelsi.

Þess ber að gæta vel, að flest fólk hefir farið af Norðrlandi og Austrlandi til Ameríku, en Norðlingar og Austfirðingar eru greindasti, fjölhæfasti, tápmesti og röskvasti hluti Íslendinga, eins víst eins og Jöklarar og sjóplássafólk *sumt hvað* er ið ómenningarlegasta af Íslendingum.

Mér dettr annars í hug, þegar ég les 5. bls., hve undarlegt það er, ekki að eins í þessu ómerkilega riti, heldr í blöðum, í ritum, í ræðum að heyra svo oft þeim *ámælt*, sem til Vestrheims fara, fyrir það að *„yfirgefa fóstrjörðina“* — eins og það sé nokkuð *víta-vert* fyrir nokkurn mann, að ala aldr sinn þar sem honum vegnar bezt. Eins og það væri nokkur dygð fyrir þá, sem vegnar hér illa, að svelta hér heima til lofs og dýrðar fóstrjörðunni, eða liggja hér upp á sveitinni Íslandi til vegsemdar, í stað þess að leita sér þar brauðs og bjargar, sem bezt lætr. Hví skömmuðu menn ekki Jón Sigurðsson fyrir að eyða aldri sínum í Danmörku? Á Íslandi *gat* hann ekki lifað; en var það ekki glæpr af honum að „yfirgefa fóstrjörðina“ og eyða aldri sínum í Danmörku? Eða Finnr Magnússon, Konráð Gíslason? Því hafa þeir ekki verið skammaðir eins og hundar — eða eins og Vestrfarar — fyrir að „yfirgefa fóstrjörðina“? Eða Eiríkr Magnússon og Guðbr. Vigfússon? Hafa þeir ekki „yfirgefið fóstrjörðina“ og sezt að í Englandi? Eða í hverju er það fólgið, að það skuli vera heiðarlegt að „yfirgefa fóstrjörðina“, ef menn setjast að í Danmörku eða Englandi eða yfir höfuð hvaða landi sem vera skal *hér í álfu*, en óheiðarlegt og ámælisvert ef menn setjast að í Ameríku?

„Svo er þetta fólk að gera sig merkilegt og skjóta saman fé handa Íslendingum“ segir höf. (bls. 5.) — Skárri er það óhæfan! Þegar Danir, Norðmenn, Svíar, Englar skjóta saman fé handa bágstöddum Íslendingum, þá er þeim þakkað það, eins og líka vert og skylt er; þá er það mannást og dygð; en ef landar vorir í Vestrheimi gera það, þá er það höfuðskömm og stórsynd — *þeim* getr ekki annað til gengið enn að gera sig merkilega! — Ég fæ ekki séð, hvað það kemr þessu máli við — eða hvernig það getr orðið gefendunum til lýta — þótt illa hafi verið varið hallærisgjöfunum hér, þegar heim kom. Þótt gjafirnar hafi einatt farið á mis við þá bágstöddustu og lent hjá þeim, sem þurftu þeirra síðr eða alls ekki, þá sannar það ekki, að ekki hafi verið nógu margir bágstaddir, enda hefði þá ekki landssjóðr þurft að lána jafnvel *einu sýslufélagi tugi þúsunda króna*, og mörgum þúsundir. Það getr verið að Gröndal, sem þarf ekki annað en ganga á landfógeta-skrifstofuna í hverjum mánuði til að sækja þangað á annað hundrað króna um mánuðinn, viti ekki af örbirgð eða neyð. En ef slíkr herra vildi láta svo lítið að skynja með skilningarvitunum, þá gæti hann dáglega fundið heimili hér í Reykjavík, þar sem ekki er matarbiti til næsta máls, þar sem einnatt er enginn eldiviðr til að ylja upp herbergi, þar sem fólkið einatt heldr við rúmið, þegar hart er frost, og margan daginn fær ekkert að borða eða þá ekki hálfan verð og það af illri og óhollri fæðu. Hefir hr. Gröndal aldrei séð fólk hér, sem sér á af hor? Það er hægt að sýna honum það hvern dag sem hann vill. Og þó er mikið, fjarska-mikið gert gott fátæku fólki hér í Reykjavík. Engu að síðr hefir það komið fyrir síðast í vetr, að leggja hefir orðið fátækrastyrk *vinnufœrum* og *vinnufúsum* mönnum, af því að atvinnuna brestr. Gengr ekki dags-daglega fólk hér um og biðr um — eitthvað að gera? Og þó er hér *gott* ástand nú *hjá því* sem verið hefir fyrirfarandi árin.

Höf. vill leggja skatt á alla, sem burt fara, til að sporna við burtflutningi. Því tekr hann ekki skrefið fult og heimtar, að mönnum sé *bannað* að flytja sig af landi? Það ætti hann að gera, ef hann vill vera sjálfum sér samkvæmr. En getr þá ekki hver hreppr með sama rétti bannað mönnum að flytja í aðra hreppa? Þá ætti helzt að innleiða átthagaband — ið gamla þrældómsband miðaldanna; er ekki svo?

„Bæði í norðrhluta Noregs og Svíaríkis er meira harðæri og loftslag kaldara en hér, og lætr fólk ekki eins þar“, segir höf. (bls. 8). Þetta er alveg ósatt, hvort sem það kemr nú til af fáfræði höf. eða vanalegri ósannsögli. Því að frá Noregi og Svíþjóð fer *að tiltölu við fólksfjölda* fleira fólk til Vestrheims árlega, heldr en frá Íslandi. Þetta veit að minsta kosti útbreiðari ritsins, ritstjóri Ísafoldar.

„Hvað lands-eðli Ameríku snertir, þar sem Íslendingar setjast að, þá er þar miklu kaldara á vetrum, en hér, og vetrinn fult eins langr“. — Mikill fræðimaðr er höf.! Hver Íslendingr, sem hefir Almanak í höndum, getr sannfært sig um, að í Pétrsborg er nálega *sjöfalt* kaldara á vetrum en í Reykjavík, í Þrándheimi (Niðarósi) er *þrefalt* kaldara á vetrum en í Reykjavík (og þó vaxa epli í Þrándheimi); í Kristíaníu og Stokkhólmi er meir en tvöfalt kaldari vetr en hér; í Königsberg í Prússlandi er meir en helmingi kaldara, og í Dresden suðr á miðju Þýzkalandi er ámóta meðalkuldi á vetrum eins og hér í Reykjavík. Hvað sannar svo það? Ekki annað en það, að það er ekki undir vetrarkuldanum komið, hvort landið er ílt eða gott; sé jarðvegr nægr og vatn, þá er meira komið undir því að *sumarið* sé ekki *of kalt*. Það er sumarhitaleysið, en ekki vetrarkuldinn, sem er Íslands-bölvun. Það væri tilvinnandi að hafa margfalt strangari vetr, ef sumarið væri nægilega heitt og langt.

Að vetrinn sé eins langr í þeim hlutum Ameríku, sem Íslendíngar setjast að í, eru hrein og bein ósannindi. Þó

að vér tökum Manitoba til, þá leysir þar frost úr jörð í byrjun marz-mánaðar, og 6.—10. apríl er farið að sá*.

„Loftið er miklu þurrara en hér, og því deyja margir á bezta aldri þar úr tæringu“, segir höf. Sannleikrinn er, að loftið er þurrara, einkannlega á vetrinn, og því er kuldinn ekki eins tilfinnanlegr og ella mundi. En loftslagið er einkar-holt, sérstaklega í Manitoba. Hvaða áreiðanleg rit getr Gröndal borið fyrir því, að loftið sé ekki holt í Canada, sérstaklega í Manitoba? Vill hann nefna eitt einasta rit eftir nafnkendan eða trúverðan höf., sem þetta segi? Það má vera nýjung, því að hingað til hafa allir, sem til þekkja, sagt ið gagnstæða. Allar ferðabækr og frœðibækr segja ið gagnstæða. Þessa mörgu, sem deyi á bezta aldri úr tæringu, hefi ég ekki heyrt um fyrri; en hitt hefi ég heyrt, og það sem óræk sannindi, *að menn, sem höfðu tæringu, hafa flutt sig til Manitoba sér til heilsubótar, og batnað þar.*

Það er satt, að þrumuveðr koma stundum í Canada eins og í öllum heitum löndum — ekki er loftið þá of þurt! Satt er það og að engisprettur eru slæm plága *þar sem* þær koma og *þegar* þær koma; og þó að Gröndal ljúgi talsverðu í lýsing sinni, þá eru *þær* full-slæmar samt. En fyrst er það, sem betr fer, *fágæt* plága; þær eru *ekki árlegr gestr eins og hafísinn hér.* Og hvenær eða hvað oft hafa þær gert tjón *í Manitoba?***

Þessar grýlur Gröndals eru álíka sannar eins og ef einhver færi að lýsa Íslandi, og segði, að það væri eilífum ísi lukt alt umhverfis árið um kring; menn gætu vaðið

---

*) Það sem um Manitoba er sagt hér, er einkannlega bygt á „*Report of the Select Standing Committee, on Immigration and Colonization, of the House of Commons. Printed by Order of Parliament 1885*“.

**) Þeirra hefir, það ég frekast veit, alls einu sinni í manna minnum orðið þar vart, og munu vera um 17 ár síðan.

klofsnjóa í bygðum á hverjum mánuði ársins, eldfjöllin gysu venjulega um sláttinn og þektu öll tún og engi og eyddu öllum grasvexti, og þetta gæti gengið ár eftir ár. Þetta væri akkúrat jafn-satt, eða jafn-logið, eins og frásögur hans um þrumurnar, haglveðrið og engispretturnar. Veslings-Ari Egilsson, sem ætlaði að missa hjartað í buxurnar og lognast út af, þegar hann sá fjóra rauðskinna á kænu-hrói!! Hann hefði sjálfsagt orðið engu miðr skelkaðr, ef hann hefði séð Benedikt sótara kolbiksvartan í framan — enda hefði verið ámóta hræðslu-orsök í báðum tilfellunum. og er Bensi greyið þó ekki blóðþyrstr svo orð af fari, heldr meinleysis maðr. En Ari hefði vel getað hugsað af litnum, að það væri flugnahöfðinginn sjálfr að sækja sig og „talið hvern sinn síðastan“ (sbr. bls. 10—11.). Ég hefi gengið dag eftir dag um eyðiskóga og óbygðir með rauðskinna fyrir fylgdarmann (rauðskinna vestr í „Alaska“, sem ekki skildi mig og ég ekki hann), og þóttist ég ekkert hafa að óttast. Ég hefi séð marga rauðskinna, og engan sem væri neitt ógeðslegri heldr en Benedikt Gröndal er á stundum.

En þó að rauðskinnar hafi gert uppreisn, þá hefir það mér vitanlega ekki verið þar, sem Íslendingar höfðu bygð, og að þeir hafi „brotizt inn á Íslendinga og drepið suma þeirra“, er bara tómr „skáldskapr“ hjá Gröndal eða „*delirium*“.

Canada öll, en þó einkannlega Manitoba, á að vera „eyðimörk ein“, og „fáir setjast að í því megurðarbæli, nema Íslendingar“. Í Canada munu nú vera fullar fimm millíónir manna (eða jafnvel á sjöttu millíón). Svo frjósamir hafa landar okkar, sem vestr hafa farið, naumast verið, að þessar millíónir sé tómir Íslendingar. Enda hafa síðustu árin *árlega* fluzt til Canada um og yfir 100 þúsundir manna. Eða ef það er Manitoba sérstaklega, sem Gröndal á við, þá flytja sig árlega bændr úr eystri héruðunum (jafnvel úr Ontarió) vestr til Manitoba og setjast þar að. Úr Bandaríkjunum flytjast nú og árlega margar þúsundir manna til Norðvestr-landsins. Bara höfuðstaðrinn í Manitoba-fylkinu, bærinn Winnipeg, hefir 20 þúsundir íbúa; fylkið er miklu fólksfleira en Ísland — og hvernig á það þá að vera rétt, að „fáir aðrir en Íslendingar“ setjist þar að?

Að segja að menn hafi enga hesta þar, er ámóta satt

eins og ef sagt væri, að engin lygi væri til á Íslandi og Benedikt Gröndal væri trúverðr og sannorðr maðr, og ritstjóri Ísafoldar væri svo fáfróðr að hann tæki fyrir sannleika alt, sem hann er að útbreiða um Ameríku.

Höf. hneykslast mjög á því, að nýlendumenn „hrófi upp“ húsum sínum „úr trjám, sem felld eru í einhverjum skógi“ — skrambans svínarí líka annað eins og þetta, að trén skuli vera felld í einhverjum skógi! Þegar Gröndal byggir sína lyginnar loftkastala, þá þarf hann ekki að fella tré í nokkrum skógi! Þá er munr á höllunum á Íslandi, sem alþýða hér býr í; er ekki heimili kent eitthvað við „...-*höll*“ á Hlíðarhúsa-stígnum? Það er víst ólíkt skrautlegra og þriflegra, heldr en landnámsmanna-húsin í Ameríku, þessi „hróf“ úr óhefluðum bjálkum úr trjám, sem „felld eru í einhverjum skógi“!!! Þau eru víst ólíkt óþokkalegri og óhollari heldr en moldarkofarnir á Íslandi?

„Járnbrautin, þessi eilífa járnbraut, sem alt af er verið að tala um að eigi að byggja“ — segir höf (á 14. bls.) — „hún er Humbug, sem við er að búast, því að það eru nokkrir loftkastala-menn, sem vilja láta leggja hana um eyðistaði og ísbreiður“ o. s. frv.

Það er Kyrrahafsbrautin í Canada, sem höf. er að tala um; hann lætr eins og hann viti ekki, að brautin er fullgjör fyrir nokkrum árum frá Atlantshafi til Kyrrahafs, og er in lengsta járnbraut í heimi — ið mesta mannvirki í þeirri grein, sem enn hefir unnið verið í heiminum.

Gröndal veit þetta líklega ekki, því að hann er ótrúlega fáfróðr um hagi annara landa. — 1844 vóru að eins 14 mílur (enskar) af járnbrautum lagðar í Canada; 1867 vóru það orðnar 2400 mílur. Í fyrra mánuði vóru það orðnar 12000 mílur, metnar yfir 625 miljónir dollars. — 1868 vóru 8,500 mílur af málþráðar-línum alls í Canada; en í fyrra mánuði (febr. 1888) yfir 50,000 mílur (auk inna sívaxandi telefón-legginga). 1868 vóru fluttar vörur út úr Canada fyrir 131 miljón dollars: 1883 fyrir 230 miljónir; hafði umsetningin þannig vaxið um 100 miljónir doll. á 15 árum. I Canada koma nú út 650 blöð og tímarit; þar af yfir 70 blöð, sem koma út á hverjum degi. Þar er betra alþýðuskóla-fyrirkomulag, en í nokkru öðru landi í heiminum (Bandaríkin *ekki* frá skilin). Og þetta er landið, sem Gröndal í haust í „Þjóðólfi“ kallaði „*verra en villuland*“. [Sbr. „The *International Good Templar*“, febr. 1888].

Það getr hver trúað því, sem vill, að Íslendingar vestra hvetji foreldra, systkin, börn og vini til að koma til sín, og borgi enda oft farið fyrir þá, eingöngu til þess að steypa þeim í glötun með sér, af því að sætt sé sameiginlegt skipbrot, eins og Gr. segir á bls. 7. — Að enginn komist heim af Íslendingum vestra, sýnir sig bezt sjálft að er lygi, því að það er langt síðan að nokkurt það ár hefir komið, að ekki komi einhverjir hingað frá Ameríku, ýmist til að sjá vini og ættingja, ýmist til að sækja þá.

Og allir þeir Norðrálfu-menn, og það margir nafnfrægir menn, sem ferðazt hafa um Ameríku og ritað um ferðir sínar og um ástand landa sinna vestra, hvað ætti þeim að ganga til að ljúga? Og allir ljúka þeir upp einum munni að lofa Ameríku sem það land, er veiti öllum vinnufærum og vinnufúsum mönnum björg og brauð. Hvað hefir ekki Dixon skrifað um Ameríku, eða Toqueville, eða Topsøe eða Marshall eða Kristofer Janson (sem sjálfr hefir síðan sezt þar að) eða Bjørnstjerne Bjørnson eða Lasker? Það mætti telja upp í það óendanlega! Og ætli allir þessir menn hafi verið að skrifa af vinsemd eða hræðslu við agenta? Eru ekki þessir menn alkunnir? Dettr nokkrum í hug að þeir skrifi fyrir gjöf eða gjald annað en það, sem þeir vita rétt og satt vera?

Ég á sjálfr fjölda ættfólks í Ameríku; ég á þar systr og systrabörn mörg; þar er móðir mín, móðurbróðir og amma mín (nú yfir áttrætt). Móðir mín skrifar mér í janúar þ. á. og segir meðal annars í bréfinu: „*Ekki hefði mig langað heim til Íslands, ef þið hefðuð verið komin hingað, því óneitanlega er betra að lifa hér en heima að mörgu leyti*“.

En það eru fleiri en ég, sem eiga ættmenn og vandamenn í Ameríku. Þessar liðugar 8 þúsundir Íslendinga þar eru meira en einn á móti hverjum 9 Íslendingum heima; það lætr því sízt um fjarri, að nálega sé *að meðaltali* 1 maðr af hverju heimili hér á landi nú í Ameríku. Þessir menn eiga vini, vandamenn eða ættingja í hverri sveit, svo að segja á hverju heimili á landinu. Höfund þessa skamma-, lyga- og níð-rits ávarpa ég ekki. — En er ekki ritstjóri Ísafoldar *hyggnari* en það. að hann sjái ekki, að þegar *hann* leggr sig til að *útbreiða* það um vini vora, vandamenn og ættingja vestra, að þeir séu allir ærulausir lygarar, prettarar og illgjarnir táldragendr, þá munum við Íslendingar

allir hér heima, sem eigum þar vini og ættmenn, taka upp þykkjuna fyrir svo blóðuga árás á æru þeirra og sóma? Hann má vara sig, ef ekki er ískalt í okkur blóðið og blóðskyldunnar ræktarbönd ekki út af dauð í okkr öllum, að slík aðferð hans hafi ekki óþægilegar afleiðingar fyrir *hann og blað hans.* Ég ann Birni Jónssyni af heilum huga hylli almennings og blaði hans vegs og útbreiðslu, *en þó því að eins að hann og blaðið verðskuldi það,* og það gerir hann og það ekki með slíkri aðferð sem hann nú hefir í frammi við íslenzka Vestrfara og við sannleikann.

Hann verðr að fyrirgefa, að ég tek ekki og get ekki tekið minsta tillit til þess, þótt annað eins fífl og Bened. Gröndal sé brúkaðr fyrir „skilt", af hverjum sem það nú er gert. Sé það ekki ritstjórinn sjálfr, sem brúkar Benedikt Gr., þá lætr hann (ritstj.) hér brúka sig til að útbreiða illmæli og lygar, sem hann sjálfr er alt of vel mentaðr maðr til að vita ekki vel, að eru lygar, og til þess álít ég hann of góðan, og hann ætti að álíta sig sjálfr of góðan til þess*. „Ísafold" leggr sig nú eftir alls konar greinum, sem niðra Ameríku, og það þótt þær sé samdar af bersýnilegri fáfræði, auðsærri ósannsögli, eða þá að hún heimfærir upp á líf íslendinga eitthvað, sem alls ekkert á þar skylt við. Þannig í haust (eða vetr) er hún tók ósannindalýsing Norðmanns eins á lífinu á ensku spekúlantsbúi eins og væri það dæmi upp á alment líf á amerískum bóndabæjum; og þó veit líkl. ritstj., að það eru til hlutafélög og einstakir auðmenn, sem spekúlera í, að taka eða kaupa stór óbygð landflæmi og láta reka þar stórbúskap; þetta eru oft útlendir menn (enskir), sem sjálfir koma aldrei nærri þangað; og þetta er tiltölulega *fjarska fágætt,* ekki einn slíkr búskapr til á móts við þúsund bændr. Þetta er enn þá ósannara, en ef tekið væri líf einhverra aumustu þrældóms-kotunga undir handarjaðri örgustu einokunar-verzlunarholu á Íslandi, og þetta væri svo gefið út fyrir sýnishorn af lífi á íslenzkum sveitabæ. En svona er „Ísafoldar" aðferð í öllu, þegar um Vestrheim er að ræða. — Það getr verið, að það eigi að vera gamla Jesúíta-lög-

---

*) Ritstj. „Þjóðólfs" tók reyndar athugasemdar og mótmælalaust upp eina „dellu"-greinina eftir Gröndal í haust; en hann virðist þó að minsta kosti aldrei vera sér úti um þessleiðis, eða sífelt rangfæra alt, sem Ameríku snertir, og aldrei hefir hann breitt út skammir um alla Vestrfara. En Ísafold lærir alt á eina bók í *þessu* efni.

málið („tilgangrinn helgar meðalið“), sem á að réttlæta þessa aðferð. Það á sjálfsagt að vera til að letja menn vestrfara. En því ekki beita þeim fortölum heldr, sem á *sannleik* eru bygðar, heldr en *„sýstematiskum“ ósannindum*? Ósannindin verða hrakin, og þá trúir engin á eftir höfundum eða útbreiðendum þeirra, jafnvel ekki þegar þeir segja eitthvað satt; þannig slá ósannindin sinn eiginn herra um hálsinn.

„Ísafold“ hefir svo oft (þessi árin sem eigandinn hefir stýrt henni sjálfr) verið talsmaðr þess sem var satt og rétt, að mér og mörgum þætti mikið mein, ef hún eyðileggr alla tiltrú til sín með aðferð sinni í þessu máli. Þegar kaupendrnir út um alt land fá ókeypis fylgirit með henni, og ekkert stendr hvorki á ritinu né blaðinu í gagnstæða átt, þá *hljóta* þeir að ætla og *hafa rétt til að ætla*, að það sé blaðið og útgefandi þess, sem breiðir þetta út, *einkannlega þegar ritið er alveg í sama anda sem ófrávíkjanlega drotnar í blaðinu í því máli, sem um er að ræða.*

Það sem ritlingr þessi beinir að „agentunum“, kemr mér minst við af efni ritsins. Engu að síðr vil ég minnast á það, bæði af því að ég er því máli kunnugr, þar sem ég bæði hefi verið „agent“[1], og hefi farið sjálfr sem vestrfari til Ameríku án meðalgöngu nokkurs „agents“, og svo af því, að ekki er ósennilegt að ætla, að ofsjónirnar yfir ímynduðum hag eða gróða agentanna hafi ekki verið sízta hvötin til samningar og *ókeypis útbreiðslu* þessarar Ísafoldar-fylgju eða fylgirits. Að minsta kosti upp lauk B. Gr. aldrei sínum munni til að tala um *„blóðpeninga“* og *„mannaverzlun“* meðan *albróðir* hans (hr. Egill Egilsson) var útflutningsstjóri; og aldrei kom þessi fítons-andi gegn vestrförum, sem nú er orðinn eins og ólæknandi höfuðsótt í „Ísafold“, yfir hana, fyrr en útflutningsstjóri Sigfús Eymundsson var orðinn prentsmiðju-eigandi og þannig *keppinautr* Bjarnar Jónssonar í atvinnu. Ég get náttúrlega ekki *fullyrt*, að þetta standi í sambandi hvað við annað, en skrambi lítr það einkennilega út!

Hvað er „agent“? Það er *umboðsmaðr*. Hvað er „Lína“? Svo nefnast ýmist stórflotar af gufuskipum, sem sífelt sigla milli ákveðinna staða; ýmist eru svo nefndir eigendr þessara flota, félögin sem eiga skipin. Þannig er

---

1) Subagent fyrir *bróður* Bened. Gröndals.

kölluð *Allan Lína* floti sá er bræðrnir Allan eiga, *Anchor Lína* (Akkeris lína) floti sá er bræðrnir Henderson eiga. Thomson Lína eru nefnd sex gripa- og farmflutnings-skip, sem nokkrir menn í Dundee eiga í félagi. „Þingvalla“-lína nefnist danskt félag o. s. frv. Eiginlega er það enskr siðr að kalla þetta línur (og er komið af því, að skip vissra eigenda hafa verið í stöðugum milliferðum milli sömu staða ár eftir ár, farið sömu *línu*). „Ið sameinaða gufuskipafélag“, sem á póstskipin, er hingað koma, er þesskonar lína (bæði Allan og Anchor Línunnar skip eru líka póstskip milli Englands og Ameríku). Póstmeistari Ó. Finsen er höfuð-agent þeirrar línu hér á landi, og allir afgreiðslumenn gufuskipanna dönsku í kaupstöðunum eru súb-agentar. Munrinn milli þessara manna og Allan og Anchor línu agentanna er sá verulegastr, að þessir agentar dönsku línunnar annast farmflutninga, en fólksflutninga að eins hafna milli hér eða þá til Færeyja og Skotlands eða Danmerkr; en hinir annast að eins *fólks*flutninga, og það einungis flutninga á því fólki, er ferðast eða flytr sig búferlum til annara heimsálfa. Báðir hafa laun fyrir starfa sinn, og eru þau laun í *hvorugu tilfellinu* tekin af hverjum þeim sem kaupir farbréf af þeim. Það getr hver sem vill reynt að fara til póstskips afgreiðslumannanna og kaupa farbréf hjá þeim, og svo hins vegar að kaupa sams konar farbréf um borð í skipinu eða á aðalskrifstofu félagsins í Höfn; verðið verðr alveg sama upp á eyri. Vilji einhver reyna það hér, að kaupa sér farbréf sjálfr til Skotlands og kaupa þar farbréf áleiðis til Ameríku, þá getr hann sannfært sig um, að honum verðr það *munum dýrara,* en að kaupa farbréf sitt hér hjá þessum „blóðsugum“(?) agentunum. **Ég hefi sjálfr reynt þetta.**

Þegar ég fór til Ameríku, var ég samferða héðan úr Reykjavík 9 mönnum öðrum; þeir keyptu allir farbréf hér hjá „agentunum“ frá Reykjavík til Milwaukee. Ég réð mér sjálfr far á póstskipinu, og keypti far í Glasgow hjá sömu „línu“ á höfuð-kontórnum; ég var á sama plássi sem þeir alla leið frá Reykjavík til Milwaukee, en mér varð farið *fullum 20 kr. dýrara en þeim.* Þetta kom ofreðlilega af því, að ég varð að borga meira en þeir fyrir farið til Skotlands, en alveg sama sem þeir fyrir farið þaðan. Auk þess varð ég að borga járnbrautar-far yfir þvert Skotland og fæði og húsnæði þar; en þeir höfðu þetta frítt.

Þetta er ofr-eðlilegt. Orsökin til þess er sú sama sem til þess, að Björn Jónsson selr „Ísafold“ fyrir sama, þegar einhver kaupir hana heima hjá honum, eins og hver útsölumaðr hans út um land. Það er jafnmikil ástæða til að kalla útsölumenn bóka og blaða — og reyndar alla, sem hafa sölu-umboð á einhverjum hlut — „blóðsugur“, eins og umboðsmenn gufuskipa-eigenda þeirra er flytja fólk; þeir gera ekki annað en hafa umboðssölu á farbréfum, sem þeir selja við sama verði sem sjálfir skipseigendrnir taka af þeim sem kaupa hjá sjálfum þeim.

Ég skal enda á því, að hafa hér upp ágrip eða útdrátt úr þeirri *lýsingu*, sem B. Gr. gefr (á 18.—19. bls.) *á oss Íslendingum*, löndum sínum, *yfir höfuð* — þeirri lýsingu, sem „Ísafold“ álítr svo aðdáanlega, að hún sé þess verð að *útbreiðast ókeypis* með blaðinu *ómótmæld sem heilagr sannleikr.*

Eftir að hann hefir brugðið Íslendingum um *„skort á föðurlandsást“*, *„meðfædda flakkaranáttúru“*, *„deyfð, ómensku, vitleysu, fákænsku, svik, pretti, ágirnd, skammsýni“*, bætir hann við: „Þar sem *þjófar og lygarar, svikarar og meinsærismenn og alls konar ódrengir, letingjar og flakkarar* eru eins margir og *hér á landi* — *þeir eru* **ákaflega margir að tiltölu** *við hina* — þar hlýtr *trúarleysi* að eiga sér allviðunanlegan stað. Þegar *menn*“ [eins og vér Íslendingar yfir höfuð] *„hafa mist sjónar á öllu góðu og fögru, á dugnaði, frelsi og sjálfstæði,* þá er alt á förum!“

Svo mörg eru þessi orð.

*„Ísafold“ er íslenzkt blað!*

*!!! Benedikt Gröndal er Íslendingr!!!*

Þau sverja sig í ættina!

